Jón Finsen:
Stuttur leiðarvísir
til að þekkja og varast
fjárkláðann.




# Stuttur leiðarvísir

til að þekkja og varast fjárkláðann[1].

Kláði á fje er, eins og kláði á mönnum mjög svo næm og langvinn hörundsveiki, er byrjar á einstaka bletti, en breiðist þaðan smátt og smátt út um allan kroppinn.

Optast nær byrjar kláðinn á þeim stöðum, sem ullin er þjettust, t. a. m. á herðakambinum, bakinu og malakambinum, en þó vill það samt opt til, að hann hefur upptök sín þar sem ullin er gisin, t. a. m. í nárunum og undir bógunum. það sem fyrst vekur grun um, að kláði sje kominn í kind, er það að hana klæjar, og sjest það af því, að hún nýr sjer upp við hvar sem hún getur, klórar sjer með aptarfótunum og kjamsar með munninum, þegar henni er klórað á þeim stað sem kláðinn er. Sje nú nákvæmlega að gætt og ullin greidd í sundur, þá sjezt, sje kláðinn ekki orðinn þroskaður, á hvítum kindum roði á hörundinu eða rauðir deplar, er síðan verða að smábólum, og er þá kláðinn að brjótast út. Opt er það, að smábólur þessar sjást ekki; er þá kindin búin að sprengja þær, þegar hún hefur verið að klóra sjer; sjezt þá í þeirra stað annaðhvort hrúður eða sár. Hrúðrið er annaðhvort þunnt og gulleitt eins og hreistur (þurrakláði), og vætlar lítið sem ekkert úr sárinu, sem undir því er; ellegar það er þykkt, hart og móleitt á lit (votakláði), og eru opt undir því smákýli. þegar kýli þessi grafa út, verða þau að vondum sárum, er jeta út frá sjer á allar hliðar, svo að þau opt ná saman og verða að einu stóru sári. þurra-

[1]) Leiðarvísir þessi er saminn samkvæmt beiðni herra amtmanns Havsteins, og hefi jeg einkum fylgt „Almen fattelig Anvisning til Husdyravlen og Husdyrenes Behandling i sund og syg Tilstand ved Dr. med. With, Förste Lærer ved Veterinairskolen“.

kláðinn finnst einkum á fje, sem hefur haft slæma aðbúð og er magurt; votakláðinn þar á móti á fje, sem er í góðum holdum. Hrútum og sauðum er enn fremur hætt við votakláða, en ám aptur á móti við þurrakláða. þar sem kláði er á kindum, verður húðin, þegar fram líða stundir, hörð, þykk og dökkleit á lit, ósveiganleg og tilfinningarlaus, og henni þá hætt við sprungum. þegar kláðinn nær að magnast, er hætt við að ullin losni. Fyrst í stað er þetta einungis á þeim stöðum, sem kláðinn er, og standa þá ullarlagðarnir út úr reifinu. Á hvítu fje eru lagðar þessir hvítari en hin ullin. Nái kláðinn að aukast svo að kindin verður útsteypt í kláða, getur hún orðið öldungis ber. Mikil áhrif hefur það á ullarlosið, að kindin er einlægt að klóra sjer og núa.

Jafnvel þó kindin sje kláðasjúk um nokkurn tíma, getur hún verið heilbrigð að öðru leyti; en sje kláðinn búinn að vera lengi í henni, tekur fyrir útdömpunina, og kemur óværð í kindina af kláðanum, og veldur það óþrifum og magnleysi; já, kindin getur orðið svo veik að hún drepist, og verður það því heldur, ef hún hefur á einhvern hátt verið veik áður en kláðinn greip hana. þegar lömb fá kláða, kemur kyrkingur í þau. Hjer að auki er fje, sem hefur verið kláðaveikt, jafnvel þó búið sje að lækna kláðann, hætt við bleiksótt (Blegsot) og vatnssýki og öðrum sjúkdómum, er spretta af almennri veiklun, þegar það, áður en það er búið að ná sjer aptur, verður fyrir þeim áhrifum, er valda slíkum sjúkdómum.

Reynslan virðist að hafa sýnt, að kláði geti sprottið upp í fje án sóttnæmis, og er þetta allt til þessa óhrakið; getur hann þá komið af illri aðhjúkrun og aðbúnaði, slæmu og skemmdu heyi, hungri, þegar fje gengur úti í langvinnum rigningum og hretviðri, og þegar það er á beit í mýrum og forarflóum. það er álit manna, að þegar kláði kviknar í fje á þennan hátt, þá komi hann á margar kindur í einu og útbreiðist fljótt yfir allan kroppinn, og tekur hann þá fyrst kindur þær, sem veikastar eru fyrir. En það sem optast veldur fjárkláðanum er sóttnæmi, og er það margsannað af reynslunni. Veldur því skorkvikindi nokkurt (kláðalús)), hvítt á lit

er vart verður sjeð með berum augum; kvikindi þetta finnst þar sem kláði er á kindinni. Menn vita það með vissu, að ekki þarf nema eina þungaða kláðalús, eða eina karlkyns og eina kvennkyns kláðalús, til þess að kveikja kláða á heilbrigðri kind, ef þær komast á hana. Kláði sá sem að sprettur upp við sóttnæmi kviknar fyrst á einni eða fáum kindum, en útbreiðist fljótt yfir allt fjeð.

Kláði getur kviknað við sóttnæmi bæði með því að heilbrigð kind snertir aðra kláðasjúka; einnig getur hann flutzt í heilbrigt fje af ullu og skinni af kláðasjúku fje, eins og af öllu jafnvel mönnum og skepnum, er á einhvern hátt hafa snortið kláðafje. Einkum er hætt við að kláðinn útbreiðist þegar margt fje er saman í litlu fjárhúsi. Nautpeningur getur fengið kláða af kindum, en þar á móti vita menn engi dæmi þess, að menn hafi fengið kláða af sauðfje.

Þegar fjárkláði gengur, er nauðsynlegt að gæta ýmsra varúðarreglna til þess að kláðinn komist ekki í fjeð. Gangi fjeð úti, er nauðsynlegt, að því leyti kostur er á, að sjá því fyrir góðum högum, og verður einkum að varast, að það gangi á votlendi og mýrum, sem er mjög svo skaðlegt þegar kláði gengur. Gott væri líka að láta fjeð inn í hús, þegar rigningar og hretviðri ganga einkum á haustin. Sje fjeð í húsum má ekki of-fylla fjárhúsin, svo fjeð hafi nóg rúm og hitinn verði ekki ofmikill; einnig er gott að hafa glugga á fjárhúsum, því birtan er öllum skepnum nauðsynleg; ekki má heldur gefa því nema gott hey. Það er mjög svo varúðarvert að hleypa fje úr sveitum, sem fjárkláði er í, saman við heilbrigt fje, og er það varla vogandi fyr en eptir viku tíma, sjái þá ekkert á því. Allar samgöngur milli heilbrigðs og kláðasjúks fjár eru mjög skaðlegar,og væri það sannarlega tilvinnandi að sitja yfir fjenu, svo því verði ekki hleypt saman við eða jafnvel í þann haga þar sem kláðasjúkt fje hefur verið fyrir skömmu, því ekki þarf nema að kindin leggist í bæli kláðasjúkrar kindar til þess hún fái kláða. Ekki má heldur láta heilbrigt fje í fjárhús, sem kláðasjúkt fje hefur verið í, nema búið sje að hreinsa það vel áður, því kláðalúsin getur leynzt í því um langan tíma.

Verði vart við kláða, verður strax að skilja úr þær kindur, sem veikar eru orðnar, og jafnvel þær sem menn einungis hafa grun um að kláði sje kominn í. Er þá nauðsynlegt að láta heilbrigða fjeð í önnur hús, hafi það verið inni, eða halda því um hríð á beit í öðrum högum, hafi það gengið úti. Að minnsta kosti annan eða þriðja hvern dag verður að skoða hverja kind, og gæta nákvæmlega að, hvort ekki sje kominn á hana kláði. Það er einnig gott að hafa nákvæmar gætur á fjárbendunni, þegar fjeð er í hnappi, og líta þá eptir hvort engin kindin klórar sjer; sje svo, er hætt við, að hún sje orðin veik, og verður þá að taka hana út úr hnappinum og rannsaka þá staði sem hana hefur klæjað á; reynist hún þá veik, verður að skilja hana úr.

Allt sem komið hefur við kláðasjúkt fje verður að hreinsa mæta vel áðr enn það má snerta heilbrigt fje aptur. Föt þau sem menn þeir hafa verið í, sem hafa sýslað við kláðafjeð, verður aptur og aptur að dýfa ofan í sjóðheitt vatn, og rekur þær, sem mokað hefur verið undan kláðaveiku fje með, verður annaðhvort að reka í eld, eða þvo mæta vel í vatni, sem er blandað með Chlorkalki (1 pund af Chlorkalki uppleyst í 6 pottum af vatni). Varla mun óhætt að hleypa heilbrigðu fje inn í þau fjárhús, sem kláðaveikt fje hefur verið í, fyr en eptir mjög langan tíma, og varlegast mundi vera að rífa þau niður, því kláðalúsin mun lengi geta lifað í moldarveggjunum. Trjávið þann, sem hefur verið í fjárgörðunum, verður að þvo vandlega í Chlorkalksvatninu áður en hann verði brúkaður til hins sama aptur.

Að sjúkdómur þessi sje læknandi er ekki efunarmál, og er það margreynt erlendis, en þar er sannarlega öðru máli að gegna en hjer hjá oss, því bæði eru þar dýralæknar nógir, og nægileg og góð áhöld, en hjer vantar hvorttveggja, þar að auki hefur þar hver bóndi fje sitt út af fyrir sig, en hjer eru samgöngur nær því óumflýjanlegar. Það er því álit mitt, að bezta ráðið við fjárkláðanum hjer á landi sje að fylgja nákvæmlega varúðarreglum þeim, er getið er um hjer að ofan, og að skera strax niður kindur þær sem veikjast, og sleppi jeg því að tala um lækningatilraunir þær, er mætti við hafa.

Akureyri 4. dag desembermánaðar 1856.

**Jón Finsen.**

---

Prentað í prentsmiðjunni á Akureyri, af H. Helgasyni.

